# Skírsla

um

# Flateyar Framfarastiptun

géfin út

af núverandi stýrendum hennar

1844.

Önnur deild.



Videyar Klaustri,

prentud á kostnad stiptunarinnar

1844.

Þess er ádur gétid í fyrri deild skírslu þessarar, sem prentud var í Videy árid 1841 hvørsu Flateyar Framfarastiptun hóffst, og hvørsu ástand hennar var til árslokа 1841 [1], hér verdur því ad eins greint frá hvørnig ástand tédrar stiptunar hefir sídan verid.

Á árunum 1842 og 1843 hefir stiptun þessi ødlost talsverdan vidgáng, hafa henni og géfist bædi bækur og peningar, eins og sídar skal gétid. Bækur þær, er stiptunin á, hafa verid lesnar med alúd, og breidst út utansóknar. Verdlaunum hefir hún ei úthlutad, sídan á árinu 1840 [2], og ber helst til þess efnasskortur hennar, þó hefir hún nú heitid verdlaunum hvørjum þeim manni, er ørn veidir í sudur hluta Bardastrandar-sýslu.

Á blads. 5 og 6 í fyrri skírslunni, er gétid ens bréflega félags, er stiptunin stofnadi med árinu 1841, og hefir þad sídan samid sér samþyktir þær, er nú koma fyrir almennings augu. Þeir menn, sem nú eru félagar eru þessir:

1. Olafur Sivertsen, Prófastur, á Flatey, forstødumadur Flateyar Framfarastiptunar, og forseti bréflega félagsins.
2. Eyúlfur Einarsson, Hreppstjóri, Dannebrogsmadur, á Svefneyum, forstødumadur Flateyar Framfarastiptunar, féhirdir bréfl. fél.
3. Magnús Einarsson, bóndi á Hvallátrum.
4. Ossur Ossurarson, bóndi á Hvallátrum.
5. Brynjúlfur Benedictsen, Kaupmadur á Flatey, forstødumadur Flat. Framfarastiptunar.
6. Einar Gudmundarson, bóndi á Hergilsey, forstødumadur Flat. Framfarastiptunar.
7. Hálfdán Einarsson, Prestur á Brjámslæk.
8. Arni Pálsson, jarđeigandi á Flatey.
9. Einar Gíslason, Prestur á Selárdal.
10. Gísli Olafsson, Prestur á Saudlauksdal.
11. Þorleifur Jónsson, Prestur á Gufudal.
12. Þorvaldur Sivertsen, Umbodshaldari á Hrappsey.
13. Arni O. Thorlacius, Kaupmadur á Stykkishólmi.
14. Gudmundur Einarsson, Kapelán á Flatey, skrifari bréfl. félagsins.
15. Olafur Pálsson, Prestur á Otrardal.
16. Eiríkur Kúld, Stúdent á Flatey.

[1]) Sjá fyrri deild skírsl. bls. 3—7. [2]) Sjá fyrri deild skírsl. bls. 23. No. 3.

Ritgjørdir þær, er félagar hafa samid, eru nú 33 ad tølu, og eru: 4 þeirra um úngbarna fóstur, uppheldi barna, heilrædi fyrir únglínga, hóffemi, advaran vid ofdrykkju; 1 um spítala; 2 um ædarvarp; 5 um sveitabúnad, þ. e. búreisn, hjúahald, fjárhús, selstødur, beitarhús, medferd á saudfé og túnræktun; 2 um hreppstjóra og sveitarstjórn; 4 um þilskipaveidar og lausamennsku; 3 um fiskiveidar; 2 eru: sjómannafrædi íslendsk med Logarithmis; 4 um alþíng, kostnad þess og ønnur málefni; 1 um skyldur húsbænda og hjúa; 1 um sidferdi vid útvortis gudsdýrkun; 1 um íslendska málid; 1 um ljáasmidi; 1 um tóbaksbrúkun; 1 um selaskot.

Árid 1841, þá fyrri skírslan var géfin út, voru bækur þær, er Flateyar framfarastiptun átti, 500 ad tølu, sídan hafa henni bætst 100 bækur, og eru þær þessar:

| | | Stiptunarinnar No. |
|---|---|---|
| **A. Gudfrædisrit:** | | |
| 1) á íslendsku. | | |
| Hugleidíngar fyrir altarisgaungufólk samdar af Basthólm, útlagdar af P. Bødvarssyni . . . | Leirárg. 1800. | 598 |
| 2) á dønsku máli. | | |
| Foredrag over Balles Lærebog af H. K. Tryde | Kbh. 1840. | 590 |
| Edv. Youngs Forsvars Skrift for Forsynet af Lodde | Kbh. 1784. | 591 |
| **C. Sagnafrædisrit[3].** | | |
| 1) á íslendsku máli, | | |
| Æfiminníng Eggérts Løgmanns Olafssonar . | Hrappsey 1784. | 529 |
| —— Sveins Løgmanns Sølvasonar . | Kmh. 1791. | 530 |
| —— Margrétar biskups frúar Finsdóttur | Leirá 1797. | 531 |
| Timans Endi . . . . . . . | Kmh. 1813. | 534 |
| Æfiminníng Árna biskups Þórarinssonar . . | Leirá 1800. | 532 |
| —— Sigrídar Magnúsd. frúar Stiftamtm. O. St. | Leirá 1810. | 533 |
| Æfisaga Péturs sýslumanns Þorsteinssonar . | Kmh. 1820. | 535 |
| — Stephans Amtm. Stephensens . . | Videy 1822. | 536 |
| — Sigrídar Stephánsdóttur Stephensens . | — 1828. | 537 |
| — Jóns Jónssonar Therkelssens . . | Kmh. 1825. | 538 |
| Æfiminníng Ísleifs Etatsráds Einarssonar . | — 1837. | 539 |
| Æfisaga Jóns Confer. Eiríkssonar . . | — 1828. | 592 |
| Íslands Árbóka X deild . . . . . | — 1843. | 575 |
| Skírnir 17di árgángur . . . . | — s. á. | 576 |

[3]) B Náttúrufrædisrit hefir stiftunin ei eignast ønnur, en þau, sem gétid er í fyrri skírslunni bls. 11.

| | | Stiptunarinnar No. |
|---|---|---|
| 2) á dønsku máli. | | |
| Afholdenheds-Selskabernes Historie i de forenede Stater i Nordamerika af Baird . . . | Kbh. 1841. | 501 |
| **E. Læknisfrædisrit [4].** | | |
| 1) á íslendsku máli. | | |
| Spurníngarkver heilbrigdinnar snúid á íslendsku af Sveini Læknir Pálssyni . . . . . | Kmh. 1803. | 600 |
| **G. Jardarfrædisrit [5].** | | |
| 1) á íslendsku máli. | | |
| Landaskipunarfrædi D. Pálssonar . . . . | Videy 1843. | 582 |
| Lýsíng landsins helga med korti . . . . | Kmh. 1842. | 586 |
| 2) á dønsku máli. | | |
| Haand Atlas, Kort over den gamle Verden . . | 1841. | 504 |
| Fædrenelandets Geographie ved E. Munthe . | Kbh. 1803. | 516 |
| **I. Kaupverdslunarrit [6].** | | |
| á dønsku máli. | | |
| Til Efterkanke for Profess. Eggers et Bidrag om den isl. Handels Frigivelse . . . . | Kbh. 1792. | 515 |
| **K. Ljódmæli.** | | |
| 1) á íslendsku máli. | | |
| Ljódabók Jóns prests Þorlákssonar fyrri deild . | Kmh. 1842. | 503 |
| Klopstoks Messias. J. Þorlákssonar 2 B. | Kmh. 1834 og 1838. | 523—524 |
| 56 Tídavísur J. Hjaltalíns . . . . | Kmh. 1836. | 525 |
| Barnaljód Vigfúsar prests Jónssonar o. fl. . | — 1780. | 526 |
| Ljódmæli M. Confer. Stephensens o. s. fr. 2 B. | Videy 1842. | 527 og 581 |
| Draumadiktur um missir E. Olafssonar af D. D. | Kmh. 1769. | 528 |
| Leidarljód handa børnum . . . . . | Videy 1842. | 580 |
| Hústabla Jóns prests Magnússonar . . | — 1842. | 583 |
| 2) á dønsku máli. | | |
| Nordens Guder et episk. Digt . . . . . . | | 545 |

[4]) D Løgfrædisrit á stiptunin ei nema þau sem frá er skírt í fyrri skírslunni bls. 12 — 13.
[5]) F Málfrædisrit stiftunarinnar eru ei ønnur enn þau, er fyrri skírslan getur um bls. 13 — 14.
[6]) H Reikningsfrædisrit sjá fyrri skírsl. bls. 15.

| L. Búnadarrit. | Stiptunarinnar No. |
|---|---|
| 1) á íslendsku máli. | |
| Avísun um ad búa til Salt af þángi . . . Kmh. 1809. | 519 |
| Suduramts. Búnadarrit 1ta B. 2ad Hefti . . Videy 1843. | 585 |
| Gardyrkjukver B. prests. Arngrímssonar . . . . 1818. | 597 |
| 2) á dönsku máli. | |
| Jagttagelser over Hampens Dyrkn. af Dalgas . . Kbh. 1812. | 509 |
| Anviisning til samme af E. Olufsen . . . — s. ár. | 510 |
| Veiledning til at bygge uforbrændelige Huse af Jord af Seidelin . . . . . — 1796. | 511 |
| Underretning om den isl. Mos etc. af Strøm . . — 1801. | 512 |
| Havebog for Bønder Priisskrift af Jacobsen . . — 1809. | 513 |
| Oversigt over Kornproduct. og Kornhandel i Danmark ved Thaarup . . . . . — 1820. | 514 |
| **N. Ritgjørdir í ymsum vísindagreinum** [7]**.** | |
| 1) á íslendsku máli. | |
| Tídindi frá Nefndaf. í Reykjav. 1839—41 . Kmh. 1842. | 502 |
| Ármann á alþíngi 4ir Árgángar . . . . . . . | 520 og 521 og 589 |
| Fréttir frá fulltrúaþínginu í Hróarskéldu 1842 . . | 577 |
| Fjølnir 6ta ár. . . . . . . . . Kmh. 1843. | 578 |
| Ný Félagsrit 2ad og 3ja ár . . Kmh. 1842—1843. | 579 og 588 |
| Campes Sidalærdómur . . . . . Videy 1838. | 584 |
| Kvøldvøkur Dr. H. Finnssonar 2ar part. Leirárg. 1796 og 97. | 595 og 94 |
| Einvígi milli Sannleikans og lýginnar eda varnarrit enna evang. Smárita. . . manuscr. | 599 |
| Íslendsk Stjørnufrædi sam. af Ursín, útløgd af J. Hallgr. 2 exp. . . . . . . Videy 1842. | 505 og 522 |
| Gaman og Alvara Dr. M. Stephensen 1—2 B. Beitist. 1818. | 595 — 596 |
| Fjórir þættir um alþíng . . . . . Kmh. 1843. | 587 |
| Frásaga um Elísabet. Dairmansd. Ev. Smár. No. 58 2 exp. | 571 — 572 |
| —„— Negra þræl . . —„— — 59 —„— | 573 — 574 |
| 2) á dønsku máli. | |
| Naturen, Mennesket og Borgeren ved Birch . Kbh. 1832. | 506 |
| Beretning om Bornholms Mineralrig v: Ørst. Kbh. 1819—20. | 507 — 508 |

[7]) M Heimspekileg rit sjá fyrri skirsl. bls. 17.

| | | Stiptunarinnar No. |
|---|---|---|
| Beskrivelse over Fuglefangsten i Island ved Drangøe | Kbh. 1784. | 517 |
| Om Ederfuglenes Fredning ved Amtm. O. St. | — s. a. | 518 |
| Mohls Skildringer af Jordens Mærkværdigheder | — 1841. | 540 |
| Det Nordiske Magazin, et Ugeskrift | — 1835. | 541 |
| Dansk Billedmagazin | — s. a. | 542 |
| Magazin for Natur og Menneskekundskab | | 543 |
| Søndagsblad 1te Aarg. | Kbh. 1835. | 544 |
| Joh. Evalds udvalgte Skrifter 1—2 D. | — s. a. | 546 — 547 |
| Blichers samlede Noveller 1—2 D. | Kbh. 1835—40. | 548 — 549 |
| Magazin for Kunstnere og Haandværkere af Ursin 1—2 B. | Kbh. 1827—28. | 550 — 551 |
| Crichton, en historisk Roman, 1—3 D. | — 1837—38. | 552 — 554 |
| Vireien og Aristokraterne af Høyer 1—3 D. | — 1838—39. | 555 — 557 |
| Buccanieren, S. C. Hall, 1—3 D. | Kbh. 1836. | 558 — 560 |
| Greven af Villamajor af Mortonval 1—3 D. | — 1839. | 561 — 563 |
| Gorgona af August Lewald 1—2 D. | | 564 — 565 |
| Den Spedalske af Halvorsen 1—2 D. | — 1839. | 566 — 567 |
| Dansk Penning Magazin 1834 | | 568 |
| Dansk Folkekalender for 1841 | | 569 |
| Annaler for Nordisk Oldkyndighed | Kbh. 1842—43. | 570 |

## Bækur Flateyar Framfarastiptunar eru

| | á íslendsku máli. | á dønsku máli. | á þjódv. máli. | á latínu máli. | Samanlagdar. |
|---|---|---|---|---|---|
| Gudfrædisrit | 22 | 51 | 37 | 10 | 120 |
| Náttúrufrædisrit | 2 | 9 | " | " | 11 |
| Sagnafrædisrit | 37 | 19 | 8 | " | 64 |
| Løgvísisrit | 7 | 16 | " | " | 23 |
| Læknisfrædisrit | 10 | 6 | 3 | " | 19 |
| Málfrædarit | 2 | 18 | " | " | 20 |
| Jardarfrædisrit | 4 | 11 | 3 | " | 18 |
| Reikníngsfrædisrit | 5 | 8 | 2 | " | 15 |
| Ljódmælarit | 21 | 7 | 1 | " | 29 |
| Búnadarrit | 10 | 23 | " | " | 33 |
| Heimspekileg rit | " | 3 | 4 | " | 7 |
| Kaupverdslunarfrædis rit | " | 9 | 3 | " | 12 |
| Rit í ymsum vísindum | 65 | 126 | 28 | 10 | 229 |
| | 185 | 306 | 89 | 20 | 600 |

Í fyrri deild skírslunnar (bls. 22—23) er gétid þeirra manna, er géfid høfdu stiptuninni bækur eda peninga á árunum 1832—1841, hér verda því ad eins taldir þeir menn, er med líkum gjøfum hafa studt stiptunina árin 1842 og 1843, og eru þeir þessir:

| | Bækur. | Peníngar. | |
|---|---|---|---|
| | Bindi. | rbd | sk. |
| Höfundar stiptunarinnar | 15 | 8 | " |
| Herra Conferenceráð amtmaður Thorsteinsson, R. Dbr. og D. M. | 34 | " | " |
| — E. P. Kuld fyrrum Factor | " | 14 | " |
| — Grímur Þorláksson, Gullsmiður | 29 | " | " |
| — Eyríkur Kuld Stúdent | 1 | 4 | " |
| — Guðbrandur Jónsson, Sýslumaður | " | 3 | 36 |
| — Guðmundur Einarsson, Capel. | 2 | " | " |
| — Þorsteinn Jónsson, kaupmaður | 2 | " | " |
| — Brynjólfur Benedictsen — — | " | 5 | " |
| — Þorsteinn Thorsteinsen — — | " | 5 | " |
| — Jacob Chr. Höjberg Þilskipaformaður | " | 1 | 38 |
| — Johannes Thorberg — — | " | 1 | " |
| Gísli Sigurðarson, Hreppstjóri | 1 | " | " |
| Ólafur Teitsson, bóndi | " | " | 48 |
| Páll Markússon, silfursmiður | " | 1 | 48 |
| Einar Guðmundarson, meðhjálpari og Gísli sonur hans | " | 4 | " |
| Sigurður Jónsson, meðhjálpari | " | " | 92 |
| Árni Gunnløgsson vinnumaður | " | " | 16 |
| keyptar bækur | 16 | " | " |
| | 100 | 48 | 86 |
| Þegar fyrri deild skírslunnar var géfin út, hafði stipt. keypt 5 bækur og eignast að gjøf 495 bækur og 145rbd og 52 sk. [8]. | 500 | 145 | 52 |
| Samtals | 600 | 194 | 42 |

[8]) Sjá f. d. sk. bls. 22—23.

## Jafnadar-reikníngur yfir fjárhag stiptunarinnar fyrir árin 1842 og 1843.

| Tekjur | rd | ß | Útgjøld. | rd | ß |
|---|---|---|---|---|---|
| Samkvæmt fyrri skírslunni[9] átti stiptunin 1841 í kóngssjód. 100rd. og á Flatey innsiglad 41rd. 64 sk. | 141 | 64 | Fyrir prentun fyrri d. skírslunnar 1841 . . . . . . . . | 28 | 92 |
| Avøxtur af 100rd. í kgssjód. í 2 ár | 8 | " | Fyrir innsigli stiptunarinnar . | 3 | " |
| Gjafir, einsog ádur er fráskírt . | 48 | 86 | Fyrir keyptar 16 bækur og adgjørd á bandi nokkurra bóka sem stiptunin á . . . . . . . | 13 | 58 |
| | | | Eptirstødvar 25ta April 1844 a) í kóngssjódi . . . 100rd. b) á Flatey innsiglad. 53rd. | 153 | " |
| Samtals | 198 | 54 | Samtals | 198 | 54 |

[9] Sjá f. d. sk. bls. 24.

## Samþyktir ens bréflega félags.

### 1ta grein.

Félag vort heitir „Flateyar Framfarastiptunar bréflega félag“ og á einkatilgángur þess ad vera sá: ad lífga fjør og anda samlanda vorra, hvetja oss til ad veita því eptirtekt, er vidkémur gagni ættjardar vorrar og naudsynjum hennar, — efla þekkíngu vora á alþjódlegum málefnum; leitast vid ad 'gagna og gledja og bæta þonnig úr skorti enna þarflegu tímarita, ad svo mikluleiti, sem faung leyfa oss og géfa þeim mønnum, er hafa færi og fýsn til, kost á, ad kynna sem flestum alit sitt um ymsa nytsama hluti, þótt ei fái þeir því á prent komid.

### 2ur grein.

Forstødumenn félagsins skulu vera alls 3, og eru þeir: „forseti, skrifari og féhirdir“; þeir skulu valdir vera af følogum, og ráda þá atkvædi þeirra; en þar fundir eru mjøg óhægir og ørdugir, skulu þeir fyrstu forstødumenn þannveg kjørnir, ad allir þeir sem nú eru félagar, skulu hafa innan fardaga árid 1843 sendt skriflega atkvædisval, um forstødumennina, Prófastinum á Flatey, sem enum helsta af frumhøfundum félagsins; en hann skal, ad þeim tíma lidnum, kalla saman alla þá félaga, er heimili eiga í Flateyarsókn; og rita þá þessir allir med honum nøfn sín undir lagagreinir þessar, er frá þeim degi skulu vera reglur þær er allir félagar séu skyldir ad gæta og hlýda, medan þeir í félaginu eru. Á fundi þessum skulu þeir vidstøddu félagar bera atkvædisskrárnar saman og sídan kveda upp eptir atkvædafjølda, hvørjir ad séu forstødumenn. Þeir forstødumenn, sem þá verda kjørnir, eiga ad vera vid forstøduna í 3 ár, nema félagar, einhvørra orsaka vegna, gjøri á því nokkra breytíngu, en ad þeim þremur árum lidnum, skal velja ad nýu; og skulu þá félagar allir hafa, ínnan ársloka 1846, sendt forseta atkvædi sín um þá nýu forstødumenn, og má þá velja þá sømu aptur, ef vill; þó eru þeir þá ei skyldir ad taka ámóti valiru, nema því ad eins, ad þeir ei ádur hafi látid félaga vita óvilja sínn, ad gégna embættinu leingur. Hafi nokkrir félagar ei gætt ad senda atkvædi sín í ákvedinn tíma, verdur því á fundinum ei gaumur géfinn og skulu þeir allt fyrir þad skyldir ad hlýda því er á fundinum verdur løgtekid. Þegar nýr forseti er med atkvædum valinn, bókar hinn gamli forseti þad, og sendir sídan þeim nýkjørna forseta bók sína og øll þau skjøl, er forsetadæminu vidkoma; en strax sem hinn nýkjørni forseti hefir tekid vid forsetabókinni, géfur hann þeim gamla forseta skilríki fyrir henni, og gétur þess vid alla félaga med umburdarbréfi. Félagid skal eignast 3 innbundnar óritadar bækur, og

sé hvør þeirra 24 arkir ad stærd; bækur þessar skulu leggjast fram á fundinum 1843, og innsiglast og fullgildast, af Prófastinum á Flatey og Hreppstjóranum í Eyahrepp, þannveg: ad sú fyrsta sé handa forseta, ønnur handa skrifara, og þridja fyrir féhirdi; tekur svo hvørr forstødumadur vid bók sinni, sé hann á fundinum, ella sendist hún honum af forsetanum.

### 3ja Grein.

Þad er skylda forseta, ad rita nøfn og heimili allra félaganna í bók sína; og skal hann sídan skíra skrífara og féhirdi frá hvørjir félagar séu. Forseti gefur út vidtøkubréf félaga; hann tekur vid øllum bréfum, er áhræra stjórn félagsins, framkvæmdir þess o. s. frv. Hann skal vera skyldur ad safna atkvædum félaganna til úrskurdar í þeim málefnum, er félagar hafa undir hann borid, og skal hann svo tilhaga, ad øllum þeim málum, sem til hans koma fyrir sumarmál, sé lokid vid endir þess árs, en þau, sem seinna eru framborin, er hann ei skyldur til ad útkljá á því ári. Hann skal svo fljótt, sem hann gétur, rita féløgunum umburdarbréf, um hvørt þad mál, er upp er borid fyrir honum, skal hann þá og skíra þeim frá áliti sínu um málid, beidast atkvæda þeirra og dæma sídan eptir atkvædafjølda, en verdi atkvædi jøfn skal forseti skéra úr, og láta úrskurdinn strax berast medal félaga. Vid hvør árslok skal forseti taka skírslur hjá skrifara og féhirdi, og finnur hann ad skírslunum, þyki honum sem þørf sé á því, og sendir þeim sídan. Láti þeir sér ei skiljast adfinníngar forseta, rita þeir honum ástædur sínar, er forsetinn lætur berast medal félaga til atkvæda þeirra og fellir á næsta missiri, eptir atkvædunum, úrskurd þann er gilda skal. Vanræki nokkurr félagi ad senda skrifara ritgjørd sína eda féhirdi enn ákvedna árseyri, skal forseti áminna hann og ítreka þad þrisvar, og láta ei meira enn missiri á milli verda; en gagni ei þetta, útilokar forseti hann úr tølu félaganna, og skírir ødrum féløgum frá. Allt, sem hér er talid og hvad annad, er hann tekur sér fyrir hendur eda til hans kémur og áhrærir forsetadæmi hans, ritar hann í bók sína, og lætur útdrátt þess berast vid hvør árslok medal félaga. Deyi forsetinn innan þess tíma, ad nýr sé valinn, tekur skrifarinn vid bók hans og kynnir féløgum missir forsetans og beidist atkvæda þeirra um val ens nýa forseta, og verdur þá sá forseti, er flest atkvædi falla á.

### 4da Grein.

Skrifari skal veita þeim ritgjørdum vidtøku, er félagar semja og senda honum, og géta í bók sinni, nær hvørein ritgjørd kom til hans, og vid árslok hvør skíra forseta med bréfi, en féløgum med umburdarbréfi, frá øllum ritgjørdum félagsins. Ritgjørdirnar skal hann ljá hvørjum þeim félaga, er beidist, þó aldrei fleiri, enn 3 í senn, þeim sem heimili eiga innansóknar, ødrum 5—8 eptir ástædum. Sá er ritgjørda beidist, skal skuldbundinn ad skila skrifara þeim óskémdum innan þess tíma, er skrifari eptir atvikum áskilur. Eingum félaga má skrifari neita um lán ritgjørdar þeirrar, er hann beidist, nema því ad eins, ad hann fái sannad, ad

hún sé ødrum léd, edur ad sá, er ritgjørdar beidist, hafi ádur ordid sekur ad ótilhlýdilegri medferd á ritgjørdum þeim, er honum ádur hafa ledar verid. Allt, sem hér er talid, og hvad eina annad, er félaginu kémur vid og forstødubæmi hans, skal hann bóka og senda forseta útdrátt þess vid árslok hvør, þá skal hann einnig géta þeirra vid forseta, er ei hafa sendt honum ritgjørdir sínar; fyrir þessu skal forseti géfa honum skriflegt skilríki, edur og sinna ad abgjørdum hans, ef þørf gjørist, og ser þá sem ádur segir í 3ju grein.

5ta grein.

Féhirdir skal taka vid árseyri sérhvørs félaga og ødrum efnum, er félaginu áskotnast, géfa skilríki fyrir hvørju einu og ætíd skíra forseta frá. Félags fé skal hann annast og geyma, og gjøra forseta skírann reikníng fyrir vid árslok hvør, og um leid senda honum skírslu yfir þá, er ei hafa goldid árseyri sinn. Í hvørt skipti, sem félaginu bætist nokkud, gétur hann þess strax í bók sinni, og ritar í hana allt þad, er forstødubæmi hans kémur vid. Ei má forseti heimta nokkud af fjármunum félagsins frá féhirdi án atkvæda félaga allra, en leysi atkvædafjøldi, skal féhirdir, strax og forseti beidist, skyldur ad greida af hendi þad, er félaginu hefir áskotnast; en þegar féhirdaskipti verda, afhendi sá, er frá fer, honum, sem tekur vid, bók sína og fémuni félagsins alla.

6ta grein.

Øllum þeim mønnum, sem vel eru læsir, og géta læsilega ritad, viljum vér veita vidtøku í félag vort, strax og þeir beidast þess, í hvørri helst stødu sem þeir eru; skulu þeir þá greida féhirdi í vidtøkueyri 64 skild. reidus. og lofa árlega ad senda honum 32 skild. (þ. e. árseyri); á ári hvørju séu þeir skyldir, ad semja ritgjørd einhvørja, er ei sé minni enn á ½ ørk pappírs, og senda hana skrifara; þad er skylda þeirra eptir megni ad stydja félag þetta og gaumgæfa skyldur félaga.

7da grein.

Sérhvørr félagi hefir rétt til ad lesa allar ritgjørdir félagsins, og virdist honum sem eitthvørt rit sé adfinníngarverdt, er honum heimilt ad finna ad því, í stad þess ad semja ritgjørd, en þó med hógværd, og ordavarkárni, svo hann ei beinlínis hnídri nokkrum manni í ritum sínum. Hvørr félagi hefir rétt til ad skíra forseta frá áliti sínu um eitt edur annad, er félaginu kémur vid; atkvædarétt hefir hann um øll fyrirtæki félagsins. Vilji einhvørr víkja úr félaginu, edur hann vegna einhvørra orsaka gétur ei leingur félagi verid, skírir hann forseta frá því, er þá strax ritar þad í bók sína og gétur þess, med umburdarbréfi, vid félaga.

8da grein.

Svo úr verdi bætt, ef ritgjørdir týnast, skal hvørr félagi skyldur ad eiga læsilegt frumrit sérhvørrar ritgjørdar, er hann sendir félaginu. Ef ritgjørdir farast ein edur fleiri, skal sá skyldur ad bæta er glatadi, ef vangætsla hefir tilkomid, en annars skéri atkvædi úr,

hvørt félagid skuli kosta þær ritadar ad nýu, er gløtudust, vilji høfundarnir ei géfa þær; en skyldir skulu þeir þá ad ljá frumritin, svo jafnan meigi rita ritgjørdir, er glatast, ef félagar vilja.

### 9da grein.

Sá sem í vidtøkueyri sendir félaginu 3 rbdl. r. S., heitir „velgjørari" þess, og hefir frá þeim tíma, øll félaga réttindi án frekari fégjafa [10]. Ef forstødunefndin álítur þad félaginu gagnlegt edur sómasamlegt, ad velja sér „heidurslimi", er henni þad heimilt, og skal þá forseti senda þeim valda heiduslim ávísun um val og skírslu yfir ritgjørdir félagsins, er heidurslimurinn hefir rétt til ad lesa, en atkvædisrétt fær hann ei fyrir þad.

### 10da grein.

Beidist nokkur vidtøku í félagid á þann hátt, ad hann fái rétt til ad lesa ritgjørdir þess, viljum vér veita honum þad, og nýtur þann þá jafnt ødrum féløgum réttar ad lesa ritin, móti því ad hann láti í vidtøkueyri 32 sk. r. S. og í árseyri 24 sk. og heitir hann „lestrarlimur" félagsins. Ødrum réttindum nær hann ekki, enn hér er gétid, en vidtaka hans í félagid, og annad er þaraf leidir, fer eins og fyrr greinir um félaga.

### 11ta grein.

Þyki einum eda fleirum féløgum þørf á vidauka þessara samþykta, skal þad gjørt eptir atkvædafjølda ad rádstøfun forseta.

### 12ta grein.

Félagid á sjálft fjármuni sína og ritgjørdir allar; en þegar efni félagsins eru ordin svo mikil, ad þad, med þeim hálfum, gétur stadist kostnad nokkurra arka prentunar, skal nefnd valin tilad úrskurda, hvad af ritgjørdunum prenta skuli; þó má einga ritgjørd prenta án leyfis høfundarins edur erfíngja hans. Þyki féløgum, sem ei sé þørf á ad prenta ritgjørdir nokkrar, þó fjárhagur leyfi, geymir þad ritgjørdir sínar, en kémur fénu á vøxtu, edur ver sumu til einhvørs þess fyrirtækis, er stydja kann adaltilgáng félagsins.

### 13da grein.

Skyldi svo ólíklega tiltakast, ad félagid sundrist og falli, skulu allar ritgjørdir þess seljast vid uppbod, móti peníngum, og hlotnast Flateyar Framfarastiptun helfíngur þeirra peninga og sjódsins, sem félagid þá á, en hinni helftinni, verdur skipt jafnt milli félaganna, er þá eru.

### 14da grein.

Samþyktir þessar skulu hid fyrsta prentadar, og stendur félagid sjálft þann kostnad.

---

[10]) Þannin eru þegar Herra Umbodshaldari Th. Sivertsen og Hera Studiosus E. K. Sivertsen ordnir „Velgjørandi" Medlimir.